// Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga, gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

8. árg. WINNIPEG, MARZ 1894. Nr. 1.

## Davíðs sálmr 116.

Eftir séra VALDEMAR BRIEM.

(Lag: Inndælan, blíðan.)

1. Ljómandi gleði
lifnar í geði;
lít eg til þín,
alvaldi herra;
öll léztu þverra
andvörpin mín.
Ljósanna faðir, eg lofa þig vil,
lofsyngja þér meðan hér er eg til.

2. Dauðans í böndum,
heljar í höndum,
hnepptr eg lá.
Sjúkr og þjáðr,
hryggr og hrjáðr
hrópaði' eg þá:
„Eilífi faðir, ó, frelsaðu mig,
frelsaðu líf mitt, eg grátbœni þig“.

3. Mildr og blíðr,
mjúkr og þíðr,

miskunnargjarn
faðirinn náða
frelsaði' hið þjáða,
fáráða barn.
Vertu því róleg nú aftr, mín önd;
öllu til góðs breytir lausnarans hönd.

4. Tárin af hvarmi,
bölið úr barmi
burt tók hans mund.
Fót minn hann reisti,
líf mitt hann leysti
lausnar á stund.
Hraustr og glaðr eg geng nú um láð,
göfgandi, prísandi lausnarans náð.

5. Hverju' er að tjalda?
hvað skal eg gjalda
honum í mót?
Heit vil eg greiða,
hans nafn út breiða
hjartans af rót.
Frelsisins bikar eg hefja vil hátt,
heilagan tignandi frelsarans mátt.

6. Ljómandi fagr
fagnaðardagr
fer nú í hönd.
Hér vil eg læra
lofgjörð að fœra
lífsins á strönd.
Hér vil eg breiða guðs lof út um láð,
lofandi drottins míns eilífu náð.

## Steinarnir úr Jórdan.

Í 4. kap. Jósúa-bókar er frá því sagt, að þegar Ísraelsmenn á leiðinni til Kanaanslands fóru yfir ána Jórdan, þá hafi þeir

tekið tólf steina úr árfarveginum, einn stein fyrir hverja ættkvísl þeirra. þessa steina höfðu þeir með sér, og í Gilgal, þar sem þeir slógu fyrst upp tjöldum eftir að inn í fyrirheitna landið var komið, reistu þeir þessa steina upp. Hvað merkja þessir steinar? þeir merkja það, að þjóðin gekk þurrum fótum yfir Jórdan. þeir áttu að vera Ísraelsmönnum til ævarandi minningar um það drottins undr, sem hafði hjálpað þeim svona yfirnáttúrlega yfir um ána.

En þeir geta líka haft aðra þýðing fyrir oss, þessir steinar. Sagan þessi í heild sinni getr á öllum tímum minnt kristna menn á mjög þýðingarmikinn sannleik, eitt stórkostlegt atriði í fagnaðarerindi trúar vorrar.

Ísraelsmenn urðu að komast yfir Jórdan til þess að ná inn í sitt fyrirheitna land. Í æfisögu frelsara vors Jesú Krists er nokkuð, sem samgildir Jórdan í sögu Ísraelsmanna til forna, þá er þeir voru á leiðinni til Kanaanslands. það eru kvalir hans og krossdauði. Píslarsaga Jesú er sú Jórdan, sem hann verðr að vaða til þess að geta náð takmarki æfisögu sinnar. Hann verðr í andlegum skilningi að laugast í móðu dauðans áðr en hann geti orðið upphafinn til hinnar himnesku dýrðar. En alveg eins verða lærisveinar drottins að hafa staðið í einhverjum straumi mótlætis og þrenginga til þess að geta orðið það, sem þeir upphaflega áttu að verða, orðið miklir og góðir menn, látið æfisögu sína verða á endanum sér sjálfum til sóma og lærimeistara sínum, hinum mikla stríðsmanni, drottni Jesús Kristi, til dýrðar.

Nú má sjá, hvað steinarnir, sem Ísraelsmenn tóku upp úr Jórdan, geta þýtt fyrir oss. þýðingin er þessi: það er enn þá unnt, á öllum dögum unnt, jafnvel fyrir ákaflega veikan mann að komast heilu og höldnu og sigri hrósandi yfir straum mótlætisins, yfir sannkallaða móðu dauðans. Og þegar einhver maðr hefir þannig komizt yfir um slíka móðu, gengið þannig í gegnum andlega skírn, þá er hann orðinn miklu meiri maðr, miklu betri maðr, stendr miklu hærra, miklu nær drottni himnanna, heldr en áðr en hann lagði út í þessa ófœru. Slíkr reyndr maðr, maðr, sem komið hefir út úr þvílíkum reynsluskóla, getr þá samgilt einum þessara steina, er Ísraelsmenn tóku með sér upp úr miðjum farvegi Jórdanar. Karaktér slíks manns er þá

orðinn fastr eins og steinn, og maðrinn sjálfr stendr að öllum líkindum úr því eins og jarðfast bjarg, sem hvergi rótast, úr hverri átt sem andi aldarfarins blæs yfir bústað hans.

Það má, guði sé lof, ekki svo mjög sjaldan sjá slíka fasta og áreiðanlega karaktéra, menn, sem verðr að skoða eins og jarðföst björg, menn, sem alveg óhætt er að treysta til þess að vera með öllu góðu, menn, sem hin góðu málefni mannfélagsins ávallt geta byggt á, menn, sem í rauninni eru máttarstólpar undir mannlegu félagi, menn, sem bera allt það, sem göfugast er í mannlífi sinnar aldar, sinnar þjóðar, sinnar byggðar, síns safnaðar á herðum sér — bera það með sér hvar sem þeir ganga, — og koma allt af allra bezt fram, þegar í raunirnar rekr. Sé nú farið að rannsaka, hvernig á þessum mönnum stendr, þá mun það oftast koma í ljós, að þessir andlegu steinar hafa einhvern tíma staðið eða legið í miðri Jórdan. Með öðrum orðum: menn munu komast að raun um, að þessir jarðföstu karaktérar hafa myndazt í einhverju ströngu stríði, að þeir hafa átt sína ströngu reynslutíð, gengið í gegnum andlega eða líkamlega eldraun eða hvoratveggja í einu, og eru síðan útgengnir úr baráttunni með þeim andlegum krafti og kjarki, sem enginn sá hefir, er ekki hefir viðlíka örlög reynt.

Hver einustu mikilsverð sannindi, öll þau sannindi, sem eru lífið og sálin í öllum góðum fyrirtækjum í mannlegu félagi, öll slík sannindi, er hafa hrundið mannkynssögunni áfram, þau samgilda líka steinunum, sem Ísraelsmenn tóku til forna með sér upp úr Jórdan. Öll slík sannindi hafa verið sótt niðr í Jórdan; þau hafa verið veidd upp á djúpinu, sótt niðr í straum stríðs og mótlætis. Sannleikrinn hefir aldrei getað opinberazt hér í jarðneskum mannheimi í sinni dýrð og krafti, enginn andlegr eða siðferðislegr sannleikr að minnsta kosti, fyr en hann í þeim eða þeim mönnum hefir verið búinn að ganga í gegnum sína píslarsögu. Enginn mikill sannleikr fæst nema fyrir stríð. Enginn getr orðið verulega mikill maðr nema fyrir stríð. Enginn verulega góðr maðr nema fyrir stríð. Enginn verulega vitr maðr nema fyrir andlega eldraun. Enginn máttarstólpi fyrir mannfélagið nema hann hafi einhvern tíma átt heima í miðri Jórdan. Menn leiti meðal allra mikilmenna mannkynssög-

unnar. Menn leiti meðal allra virkilega góðra manna, sem þeir hafa lært að þekkja á æfi sinni. Menn leiti meðal allra þeirra mannssálna, er skína á söguhimni nútíðarinnar eða liðinna alda eins og bjartar og blikandi stjörnur. Og niðrstaðan mun verða, að allar þessar sálir hafa átt sína undangangandi þrengingarsögu, til þess ekki að segja reglulega píslarsögu.

Ekki allir menn hafa batnað, vaxið og styrkzt andlega á mótlætistímabilum æfi sinnar. það er satt, og því er nú miðr. það hafa sumir legið undir í því stríði, látið straum mótlætinganna gjöra úr sér ómenni, eyðileggja sig andlega. En hvað sem því líðr, þá er hitt eins satt fyrir því, að allir miklu manns-karakterarnir, sem til hafa verið og til eru, hafa myndazt í Jórdan. Eitthvað það, er samlíkzt getr píslarsögu frelsarans, hefir verið brennipunktrinn í lífi allra verulega góðra og mikilla manna.

„Ef þessir þegðu, myndi steinarnir tala", sagði Jesús. þó að allir aðrir þegði um ágæti kristinnar trúar og hætti að hylla hinn krossfesta sorgamann eins og konung himins og jarðar, þá myndi steinarnir tala, allir þeir kristnu karaktérar, sem fyrir það að vera staddir í Jórdan hafa náð að verða hluttakandi í píslum frelsarans.

þó að allir aðrir félli frá kristinni kirkju — fyrir það að vantrú aldarfarsins hefði hrifið þá með sér —, þá myndi kristin kirkja samt engan veginn falla, því að steinarnir frá Jórdan, karakterarnir kristnu, sem myndazt hafa í þrengingum lífs og dauða, myndi halda málefni hennar uppi, standa með það eins og jarðföst björg og bera það á fram. Svo kristninni er óhætt svo lengi sem nokkrir slíkir steinar eru til.

Vér Íslendingar þurfum nú sannarlega á slíkum steinum að halda fyrir öll vor velferðarmál, og fremr öllu öðru þá fyrir málefni kristindómsins hjá oss, — lifandi steinum fyrir kirkju vora, steinum, sem standa stöðugir, hvernig sem stormarnir blása, steinum, sem halda saman hinni kirkjulegu bygging vorri, steinum, sem á má byggja, að ekki verði allir burt úr byggingunni áðr en nokkurn varir, steinum, sem ekki koma ofan yfir mann og kristindómsmálefnið sjálft, hrynjandi og hrapandi, steinum, sem tala um blessunina, er stafar af Jesú Kristi hinum krossfesta, þótt allr þorri kirkjulimanna þagni, steinum, sem málefni hins

krossfesta getr haft í kodda stað, getr hvílt á eins og á virkilegum máttarstólpum.

Guð gefi þjóð vorri og kirkju marga slíka steina.

---

## Má reiða sig á guðspjallasöguna?

Eftir dr. *F. Godet* í Neuchatel í Sveiss.

---

Framhald.

Í seinni tíð hafa nú vísindin að nokkru leyti fylgt þessari réttu aðferð. Menn, sem lagt hafa stund á sögulegar rannsóknir, eins og Ewald, Keim og fleiri, og jafnvel Renan, sem reyndar er einn þeirra manna, er frá upphafi neita því, að kraftaverk geti til verið, hafa þó ekki getað losað hugsan sína frá því, að ýmislegt dæmalaust hafi komið fyrir í æfisögu Jesú, — yfirnáttúrlegt vilja þeir auðvitað ekki kalla það. Frásagnirnar eru svo einfaldar, blátt áfram og nákvæmar, svo margar að tölu og þrátt fyrir það, hve ólíkar þær eru hver annarri, svo samhljóða, orð Jesú, sem samfara voru ýmsum kraftaverkum, svo einkennileg og allsendis ólík því, að nokkur hefði getað fundið önnur eins orð upp, og í tilbót svo óskiljanleg, ef þau eru slitin frá atburðunum sjálfum, sem frá er sagt, að vér neyðumst til að játa, að fyrir hafi komið merkilegar lækningar, sem eigi er unnt að gjöra grein fyrir á náttúrlegan hátt. Alþýðlegar sagnir hjá Gyðingum bera þess líka vott, að þessi undr festust í manna minnum. Sé því neitað, að Jesús hafi gjört yfirnáttúrleg verk þann tíma sem hann dvaldi hér á jörðinni, þá er með öllu óskiljanlegt, hvernig líf hans gat haft svo dæmalaust sterk áhrif á samtíðarmenn hans.

Menn reyndu þá til að draga svo mikið úr lækningum Jesú, að þær yrði ekki annað en náttúrleg blessunarrík áhrif, sem hann, eins fram úr skarandi maðr, hreinn og dyggðugr og hann var, hafi hlotið að hafa á huga og taugakerfi sjúkra manna, og hafi þau áhrif verið svo sterk, að þau hafi valdið lækning þessara manna. Þóttust menn með þessu móti sálarfræðislega hafa gjört grein fyrir lækninga-undrunum. En með þessari skýringartilraun er bæði of mikið og of lítið sagt. Það hefði aldrei verið unnt að búast áreiðanlega við heppilegum árangri af

svona löguðum áhrifum. Þegar bezt stóð á, gat maðr að eins haft von, en enga vissu um nokkur þvílík áhrif, sem, ef þau á annað borð komu fyrir, að eins urðu skoðuð sem heppilegar tilviljanir. Hvernig hefði Jesús átt að áræða að koma fram opinberlega, ef hann hefði ekki haft annað en þessa óvissu að reiða sig á? Hann hefði þá ekki í viðrvist alls fólksins getað sagt við konuna, sem blóðfallssjúk hafði verið í tólf ár: „Dóttir, þín trú hefir hjálpað þér; far í friði og vertu heil sjúkleika þíns“ (Mark. 5, 34); eða við limafallssjúka manninn, sem borinn var til Jesú af fjórum mönnum: „Statt upp og tak sæng þína og far til húss þíns“ (Mark. 2, 1—12); eða við líkþráa manninn: „Eg vil, vertu hreinn“ (Matt. 8, 3). Auk þess sést það á frásögunni um lækning limafallssjúka mannsins (Mark. 2, 1—12), og það mjög greinilega, að Jesús gaf út þannig lagað máttarorð sem trygging fyrir yfirnáttúrlegri lækning, sem hann ætlaði að framkvæma. Það hefði verið léttúðugt af honum í meira lagi, hefði hann teflt upp á tvær hættur um vald það, sem hann hafði í sér mönnunum til blessunar, með því að láta áhrif þess vera komin undir hinu óvissa eðli taugakerfisins í mannlegum líkama. Fullvissa sú, sem orð hans við slík tœkifœri bera vott um, er líka svo mikil, að vér hljótum að útleiða hana frá allt annarri orsök. Svo er enn fremr þess að gæta, að kraftaverkin í náttúruríkinu eiga ekkert skylt við áhrif á sálina, eins og t. a. m. þá er Jesús lægði storminn á vatninu, margfaldaði fáein brauð og fáeina fiska, breytti vatni í vín, lét fíkjutréð visna, uppvakti dauða menn. Til að komast frá þessu hafa menn þá þau úrræði, að segja, að sögurnar um undrin í náttúrunni sé þjóðsagnir, sem myndazt hafi af hjátrú alþýðu. En þessi undr hafa alveg samskonar vitnisburði sér til staðfestingar eins og lækningarnar og eru oss flutt af sömu postullegu frásögunum, sem allar eru samhljóða. Í sögulegu tilliti eru hvortveggja undrin jafn-áreiðanleg. Frá vísindalegu sjónarmiði höfum vér engan rétt til að velja um þau og segja: Önnur undrin tökum vér gild, en hinum neitum vér. Heyra þau ekki öll saman til hinnar sömu postullegu undirstöðu guðspjallasögunnar? Bera ekki sögurnar um náttúruundrin jafnt eins og þær um hin undrin sama merki alvarlegrar sannleiksástar og hreinskilins vilja til að fara rétt með söguna? Þetta kemr einkum greinilega fram, þar sem um leið og sagt er

frá einhverju kraftaverki Jesú ýms atvik eru dregin fram, sem auðmýkjandi voru fyrir postulana eða jafnvel gjörðu þá hlœgilega. Eftir að Jesús í annað skifti hafði mettað mannfjöldann með hinum litla matarforða, kom hann með þá aðvörun til lærisveinanna, að þeir skyldi varast súrdeig Faríseanna, og skildu þeir þetta svo sem hann væri að ávíta þá fyrir það að hafa ekki tekið brauð með sér. það var vissulega barnaleg hugsun, og í þeirri veru segja þeir frá henni, þar sem þeir koma með orð þau, er drottinn sagði út af því tilefni: „Hví fáizt þér um það, að þér ekki tókuð brauð með? Skynjið þér enn ekki né skiljið? Er hjarta yðar enn þá sljógt? Sjáið þér ekki með berum augum? Heyrið þér ekki með opnum eyrum? Eða munið þér ekki“ o. s. frv. (Mark. 8, 17—18). það er þó ervitt að hugsa sér, að slíkar ávítur og svo auðmýkjandi atvik sé tilbúningr eftir postulana sjálfa eða kirkju þá, sem af þeim var grundvölluð, og að svo hafi sá tilbúningr af handahófi verið settr inn í hina upphaflegu guðspjallasögu. því verðr þvert á móti eigi neitað, að þessi orð og þessar ávítur drottins verða meiningarleysa ein, ef þetta er slitið frá þeim yfirnáttúrlegu verkum, sem tilefni gáfu til þeirra. Standi þessi orð á sögulegum grundvelli, þá hljóta sannarlega undrin, sem þau orð eru töluð út af, að gjöra það líka.

það hefir verið sagt, að á þeim tíma og hjá þeirri þjóð hafi enginn spámaðr getað búizt við að fá viðrkenning, ef hann ekki gjörði kraftaverk, og því hafi Jesús líka orðið að gjöra svo lítið úr sér að látast að minnsta kosti framkvæma virkileg undr, eða postularnir hafi orðið að eigna honum þau. það að Jesús eða postularnir hafi á þennan hátt villt sjónar fyrir mönnum, enda þótt í góðum tilgangi eigi að hafa verið, verðr með engu móti samrímt við eðli hans eða þeirra; slíkt er sálarfrœðislega ómögulegt. En þótt ekkert tillit sé tekið til þessa, þá sannar framkoma Jóhannesar skírara til fullnustu, að sú getgáta, sem hér er um að rœða, er algjörlega tekin úr lausu lofti. því svo sem kunnugt er var Jóhannesi veitt viðtaka sem miklum spámanni af almenningi þjóðarinnar, og það svo greinilega, að menn höfðu sterka tilhneging til að trúa því, að hann væri hinn fyrirheitni Messías, enda þótt þess sé hvergi getið, að hann hafi gjört eitt einasta kraftaverk, hvorki í sögu Jósephusar, né munnmæla-

sögum Gyðinga, né guðspjöllum nýja testamentisins, sem þó svo vel halda heiðri hans á lofti; um hann er einmitt sagt, að hann hafi ekkert jarteikn gjört (Jóh. 10,41). þessi merkilegi munr á framkomu hans og Jesú hefði aldrei verið sýndr af guðspjallamönnunum, ef hann hefði ekki verið sögulegr virkilegleikr.

Auk guðspjallanna getum vér nú líka bent á vitnisburð eins manns, sem sjálfr persónulega hafði fengið reynslu fyrir hinum yfirnáttúrlega mætti frelsarans eftir að hann var inngenginn í sína dýrð. Páll spyr í Galatabréfinu (3,5), hvort sá, sem veiti andann og framkvæmi kraftaverk, gjöri það með lögmálsverkum eða fyrir boðan trúarinnar. Hann skírskotar hiklaust til þess, sem Korinþumenn hafi séð og heyrt, þar sem hann segir: „Postulateikn eru gjörð meðal yðar í allri þolinmœði með táknum og stórmerkjum og kraftaverkum (2 Kor. 12,12). Og til Rómverja ritar hann í sama anda: „Ekki myndi eg dirfast að tala nokkuð það, er Kristr hefir ekki framkvæmt fyrir mig, að koma heiðingjum til hlýðni með orði og verki, með krafti tákna og stórmerkja, með krafti heilags anda“ (Róm. 15, 18—19.). þar sem á þennan hátt er skírskotað til votta, þar getr eigi verið að rœða um svik eða óáreiðanlega sögusögn. Og jafn-fráleitt er að tala um sjálfsblekking hjá manni með eins mikilli greind og áreiðanlegri þekking á sjálfum sér eins og Páll.

Annars er undrunum engan veginn af handahófi dreift út um hina helgu sögu, eins og almennt er álitið. Og sérstaklega er það hin mesta fjarstœða, þegar staðhœft er, að undr komi lang-helzt fyrir í sögu þess tímabils af fornöldinni, sem lengst er í burtu og þar af leiðandi var minnst kunnugt, en að svo verði þau óðum færri eða komi sjaldnar fyrir eftir því sem tíminn leið og þekking manna fór fram. Allt fram á daga Mósesar, eða fyrstu þúsund árin af æfi mannkynsins, kemr ekki fyrir í hinni helgu sögu eitt einasta undr, er menn hafi látið framkoma í ríki náttúrunnar. það koma fyrir engla-opinberanir og fleiri yfirnáttúrlegir atburðir í æfisögu þeirra Abrahams, Ísaks, Jakobs og Jósefs, forfeðra Ísraelslýðs; en sjálfir gjöra þeir ekkert kraftaverk. Undr í eiginlegum skilningi byrja ekki fyr en með Móses, sem guð beitti eins og verkfœri sínu til þess að opinbera sjálfan sig sem hinn eina sanna og heilaga guð þvert á móti trú heiðindómsins á hina mörgu hjáguði. Kraftaverk þessi

í sögu Mósesar birtast sem guðleg teikn. það opinberast í þessum undrum nafn og eðli Jehova, þess guðs, sem segir: „Eg er sá, sem eg er“, eða með öðrum orðum: Eg einn er það, sem eg er og vil vera; en allar skapaðar verur eru að eins það, sem eg vil þær sé. Um langan tíma koma nú engin undr fyrir. það ber ekki á slíkum atburðum fyr en liðin eru sjö hundruð ár. þá kemr það fyrir í Ísraelsríki, að þeir Elías og Elísa gjöra kraftaverk, sem hafa þann tilgang, að lífga við og varðveita trúna á guð, sem um það leyti var því nær orðin að engu meðal guðs útvalda lýðs. Mörgum hundruðum ára síðar ber enn á undrum, það er að segja meðan stóð á útlegðinni í Babýlon, og tilgangr þeirra undra er sá, að nafn hins sanna guðs, sem þá var komið í óvirðing, mætti aftr frammi fyrir augum heiðingjanna verða vegsamlegt. Síðan verðr í fjögr hundruð ár hlé á undrum, en er sá tími er liðinn, koma þau enn fyrir, og þá í dýrðlegri mynd en nokkurn tíma áðr, þegar guð lætr ráðsályktan sinni mönnunum til frelsis verða framgengt og fyrir framkvæmd postulanna stofnar kirkju sína. Undrin eru þannig samfara hinum þýðingarmestu tímabilum í sögu opinberunarinnar. því fer þannig mjög fjarri, að þau komi fyrir hvenær sem verkast vill eins og í æfintýrum, eða hverfi smátt og smátt eftir því sem tími líðr fram. þau koma þvert á móti að eins fyrir, þá er mjög einstaklega stendr á og hinn lifandi guð sér, að þau geta haft þýðing í sögu hjálpræðisins, og fara áhrif þeirra æ vaxandi eftir því sem þau koma fyrir seinna í þeirri sögu.

Undrin verða þannig flest og þýðingarmest á þeim tíma, þá er hin síðasta og mesta opinberan guðs er að koma fram. Undr þau, er Jesús framkvæmdi, fullnœgja mannlegri þörf og samþýðast mannlegu eðli betr en öll önnur undr. Kristr er hinn heilagi á meðal syndaranna. Líf hans er þannig hið mesta andlega undr, sem hugsazt getr. því koma kraftaverk hans svo eðlilega fram, og opinbera hina dœmalausu fylling lífs og kærleika, sem í honum bjó.

það er þó í rauninni býsna merkilegt, að á vorri öld, þegar heimspekingarnir halda því fram, að heimrinn sé í innsta eðli sínu vilji, skuli menn ekki vilja viðrkenna, að viljinn hafi þvílíkt vald yfir hlutunum eins og undrin bera vott um. Vilji, sem ekki vissi af sjálfum sér, á, eftir því sem menn segja, að

hafa látið heiminn verða til, og vilji, sem veit af sér á á sínum tíma að láta heiminn líða undir lok; en allan tímann, sem liggr á milli slíks upphafs og slíkra endaloka, ætti viljinn ekki að hafa neitt vald yfir þessum sama heimi, sem honum er þó háðr? Þvílíkar mótsagnir býðr biblían oss ekki. Biblían kannast fyllilega við mannlegan vilja, en ekki sem orsök þess að heimrinn sé orðinn til, heldr sem endimark hans. Heimrinn kemr fram sem hið stórkostlega verkfœri, er guð sjálfr hefir látið verða til í þeim tilgangi, að maðrinn gæti fengið þar uppeldi í siðferðislegu tilliti og yfir höfuð fullkomnazt. Af þessu hlýtr þá líka það að leiða, að þetta mikla verkfœri, náttúran, er æfinlega til taks, þegar guð vill beita henni til þess að koma fram fyrirætlunum sínum mönnunum til fullkomnunar, — hlýtr á hverri stundu að vera undir það búin, að hlýða vilja hans og styðja að því, að hann nái tilgangi sínum með mennina. Hver sem vill getr náttúrlega sagt, að kenning biblíunnar sé heimska, en hún hefir þó að minnsta kosti engar mótsagnir inni að halda.

Vér skulum enn leiða athygli manna að einu atviki. Er nokkuð óeðlilegt að hugsa sér, að hann, sem er herra mannkynsins og sér um uppeldi þess, þegar hann veit af einhverjum manni, sem dýrð guðs og sáluhjálp meðbrœðra hans liggr á hjarta, taki þá þennan mann sér til samverkamanns til að kenna mönnum að lyfta sér upp til guðs? Og ef svo slíkr samverkamaðr guðs sérstaklega sýndi sig trausts hans maklegan, hví skyldi guð þá ekki að einhverju leyti gjöra hann hluttakandi í valdi sínu yfir náttúrunni? Slíkt vald yfir náttúrunni tilheyrði einmitt manninum í upphafi, en hann var sviftr því um svo eða svo langan tíma út af því að hann syndgaði og fór illa með vilja sinn, og út af því að þá mátti líka við því búast, að hann myndi beita til ills valdi því, sem honum hafði verið veitt. Dœmi annarra eins manna og Mósesar og Elíasar sýnir oss, að fyrir miklu má trúa þeim, er trúir reynast, og af æfisögu Jesú sjáum vér, að allt getr gefið orðið í vald þess, sem mesta trúmennsku sýnir. Sé svo, að vilji sé eðli hlutanna, og sé svo, að það, sem gott er, sé endimark hins fullkomna vilja, þá hlýtr á endanum allt það, sem náttúrunni tilheyrir, að verða lagt undir hinn heilaga vilja, og hver einstakr vilji hlýtr að fá hlutdeild

í valdinu yfir hlutunum að sama skapi og hann hefir komizt langt í því að ná takmarki heilagleikans. Það má því skoðast sem svik við hið háa takmark, sem mannkyninu er ætlað að ná, þegar mögulegleikinn til að framkvæma undr er fyrirfram strykaðr út af prógrammi sögunnar. Sökum þessa hafa líka menn, sem dýpra hafa hugsað, eins og Rothe, hiklaust sett sig upp á móti neitan kraftaverkanna, með því að þeir telja þá neitan grunnskyggni eina.

Það er þó einkum eitt atvik, stórkostlegt og þýðingarmikið, í æfi Jesú, sem allar tilraunir til náttúrlegrar skýringar hljóta að standa á; það er *upprisa* drottins. Það hefir með öllu móti verið reynt til að gjöra þennan mikla atburð í mannkynssögunni að engu, en það hefir ekki tekizt, og nú á dögum sýnast allar mótbárur, sem unnt er að upphugsa í þá átt, vera tœmdar, og hið mikla undr, þar sem segja má að öll saga hins guðlega hjálpræðis renni saman í eitt, ljómar nú í virkilegleik sínum með meiri birtu en nokkurn tíma áðr.

Svo sem áðr er tekið fram, hefir jafnvel Strauss mótmælt þeirri getgátu, sem Gyðingar fundu fyrstir uppá, að þegar postularnir vitnuðu um upprisu drottins síns og meistara, þá hafi þeir gjört sig seka í greinilegustu svikum. Á móti því talar það, hve huglausir lærisveinarnir voru fyrst eftir dauða Jesú, hve forviða og fagnandi þeir urðu út af því, sem kom fyrir á páskadaginn, og hvílík djörfung og trúarvissa kemr síðan fram hjá þeim alla þeirra æfi út, er þeir vitna um þann atburð. Sú djörfung er svo sterk, að eigi er annað hugsanlegt en að til grundvallar fyrir henni liggi óskeikanleg sannfœring um virkilegleik upprisunnar.

Strauss hefir einnig fellt harðan dóm yfir annarri tilraun til að gjöra grein fyrir þessum atburði. Sumir þeirra, sem eru að eiga við biblíuskýringar, segja, að Jesús hafi sjálfsagt aldrei dáið á krossinum; hann hafi að eins fallið í dá eða fengið yfirlið, en svo hafi hann vaknað aftr, er hann lá í gröfinni; hið svala loft þar niðri og ilmrinn af smyrslum þeim, sem hann var smurðr með, hafi vakið hann. Það er þó sannarlega óhugsanlegt, að Jesús, eins veiklaðr og máttvana og líkami hans hlýtr að hafa verið orðinn eftir hinar hræðilegu píslir, hafi að áliðnum sama degi getað gengið til Emmaus og þaðan aftr til baka um kvöldið til þess

að láta lærisveinana á ný sjá sig í Jerúsalem, og horfið svo aftr burtu frá þeim. Og þótt ekkert tillit sé tekið til þessara einstöku atvika, þá er þó óhugsanlegt, að lærisveinarnir, með þennan veiklaða og máttvana líkama Jesú fyrir augunum, hefði farið að trúa á hann sem herra lífsins og sigrvegara dauða og grafar, og það er þó vitanlega þessi trú, sem er undirstaðan undir gjörvallri prédikan og starfsemi þeirra þaðan í frá.

Strauss sjálfr hefir fundið upp þriðja ráðið til þess að þurfa ekki að viðrkenna þetta undr, og Renan hefir fetað í hans fótspor. Hann játar, að postularnir hafi verið samvizkusamir og vandaðir menn, og sömuleiðis, að Jesús hafi virkilega dáið; en hann hefir það fyrir satt, að þeir hafi verið ruglaðir af andlegri sjónhverfing, sem hafi leitt af því, að allt þeirra tilfinningalíf hafi orðið uppœst út af dauða Jesú. Þeir sneru aftr til Galíleа, þar sem þeir áðr höfðu lifað með meistara sínum og herra. Þar hafi þeir þá sökkt sér svo djúpt niðr í endrminninguna um hann frá liðinni tíð, að á endanum hafi þeir ímyndað sér, að þeir virkilega sæi hann. Og alveg eins hafi farið fyrir Páli postula á ferð hans til Damaskus. Uppœstar tilfinningar hafi ruglað sálarsjón hans og svo hafi hann ímyndað sér, að Jesús Kristr hefði birzt sér, enda hafi hann fullkomlega haft rétt til að setja það, er þannig kom fram við hann, jafnhliða þeim opinberunum, sem hinir lærisveinarnir töldu sig hafa orðið fyrir, með því að hvorttveggja hafi verið óvirkilegt.

(Framh. í næsta blaði).

---

## Sálmr

eftr séra *Lárus Halldórsson.*

---

(Lag: Ó þá náð, að eiga Jesúm.)

1. Komið til mín, komið allir!
kallar Jesús enn til vor,
þér, sem eruð þunga hlaðnir,
þreyttir gangið æfispor.
Yðr hvíld skal hœga veita,
hvíldar yðr virðist þörf.

Eg vil yðr alla létta
æfiþraut og lífsins störf.

2. Okið mitt hið ljúfa, létta
leggja vil eg yðr á
fyrir heimsins höfga byrði,
henni yðr leysa frá.
Af mér lærið hógværð hjartans;
hœgjast mun þá yðar sál.
Komið til mín, komið, vinir!
komið! nú er meir en mál.

3. Heilir ekki höldar þurfa
heilnæm þiggja læknis ráð;
syndugir og sekir einir
sœkja verða til mín náð.
Sjúkum er eg sára lækning;
syndugum minn veiti frið.
Komið til mín, kæru vinir!
komið! hafið enga bið.

4. Já, eg kem, eg kem, ó, Jesú,
kem og sekan játa mig;
lát þú mig af líknsemd þinni,
ljúfi drottinn, finna þig.
Eg er þreyttr, þraut mig beygir,
því eg koma vil til þín.
Eg er sjúkr, sæti Jesú,
sárin aumu lít þú mín.

5. Lækna, Jesú, meinin mörgu,
mitt er sjúka hjarta þjá;
því að þér og engum öðrum
alla von og traust hef á.
Virztu þungu, þöglu tárin
þerra blítt af hvarmi mér.
Veit mér æ á æfibrautum
unað, frið og hvíld í þér.



Um leið og *Kirkjublaðið* (í Rvík) í haust sagði frá því, að bókasafn séra Eggerts heitins Briem væri komið hingað vestr sem væntanleg undirstaða til bókasafns hinnar fyrirhuguðu skólastofnunar kirkjufélags vors, skoraði það á alla útgefendr bóka og blaða á Íslandi, að gefa framvegis eitt eða tvö eintök af ritum þeim, er þeir gæfi út, til þessa safns. Tók blaðið fram þessari sinni áskoran til stuðnings, að öllum þar heima ætti að vera annt um, að íslenzkt þjóðerni og menntalíf gæti varðveitzt hjá brœðrum þeirra hér vestra, en til þess væri íslenzkt bókasafn ómissandi. En jafnframt treystir blaðið því, að þetta safn, sem kirkjufélagið er að koma upp, verði frjálst til afnota fyrir alla Íslendinga, sem þess geta notið fyrir fjarlægðar sakir.

Vér erum *Kirkjublaðinu* náttúrlega mjög þakklátir fyrir þessa áskoran, þótt vér höfum dregið að minnast hennar þangað til nú. Vér höfum verið að bíða eftir því, að fé það, sem kirkjuþingsmenn lofuðu að gefa til bókasafnskaupanna, kœmi allt inn, því svo lengi sem svo eða svo mikið af þeirri upphæð var útistandandi, var næsta lítil trygging fengin fyrir því, að safnið yrði eign kirkjufélagsins, enda þótt það væri til vor komið. Fyr fannst oss ekkert þýða í nafni kirkjufélagsins að hreifa því máli, sem áskoran *Kirkjublaðsins* fer fram á.

Þessi trygging er nú reyndar ekki algjörlega fengin enn. Bókasafn það, sem um er að rœða, er ekki fullborgað enn. Það vantar enn nokkra tugi dollara. En héðan af sleppir kirkjufélagið safninu naumast úr höndum sér.

Á kirkjuþinginu í sumar komanda hljóta bókasafnskaup þessi að verða fullgjörð. Og að sjálfsögðu gjöra kirkjuþingsmenn þá ráðstöfun fyrir geymslu og meðferð safnsins í næstu framtíð.

Náttúrlega tekr kirkjufélagið því með hjartanlegum þökkum, ef útgefendr bóka og blaða á Íslandi sinna áskoran *Kirkjublaðsins* og senda bókasafninu gefins það, sem þeir framvegis gefa út. Og að fullnœgja skilyrði því, sem sett er, nefnilega að safninu sé haldið opnu til frjálsra afnota fyrir íslenzkan almenning hér, teljum vér alveg sjálfsagt. Að eins viljum vér taka fram, að þetta getr ekki orðið fyr en bókasafnið er algjörlega sett á fót og fastar reglur eru settar fyrir meðferð þess; en þetta ætti einmitt að verða gjört á kirkjuþinginu í sumar.

Hr. Björn Jónsson, ritstjóri *Ísafoldar*, hefir nýlega gefið sunnudagsskólabókasafni kirkju vorrar í Winnipeg tímaritið *Iðunni*, 7 bindi í vönduðu bandi.

TIL SKÓLANS.

Guðlaugr Erlendsson $1.00; Magnús Breiðfjörð $1.00; Kristín Sigrpálsdóttir $0.50; Kristján Jónsson $0.50; Gunnlaugr Peterson $1.00, öll á Garðar. — B. T. Björnsson $1.00; Hattie Snowfield $5.00, bæði á Mountain. — Ingibjörg Bjarnadóttir $0.50, Guðríðr Ólafsdóttir $1.00, Anna Thorgrímsen $1.00, Pálína Daníelsdóttir $0.50, Eleónóra Júlíus $1.00, allar í Winnipeg.

Þessir peningar hafa fyrir löngu síðan verið afhentir féhirði skólasjóðsins, þótt kvittun þessi hafi af vangá legið óprentuð þangað til nú.

Frá séra Jens Pálssyni í Útskálum hefir skólanefndin enn fremr veitt móttöku $20,14. Það er féð, sem skotið var saman í fyrra á SYNÓDUS í Reykjavík skólasjóði vorum til handa, að viðbœttum 5 krónum, gjöf til skólans frá dr. Jóni Þorkelssyni í Kaupmannahöfn. — Þeir, sem þátt tóku í samskotum þessum á synódus, voru: Hallgr. biskup Sveinsson 10 kr., Kristján Jónsson, amtm., 5 kr., séra Einar Jónsson í Kirkjubœ 5 kr., séra Sæmundr Jónsson í Hraungerði 4 kr., Eiríkr Briem, dócent, 5 kr., séra Magnús Andrésson á Gilsbakka 5 kr., séra Sigurðr Jensson í Flatey 4 kr., séra Bjarni Þórarinsson á Prestbakka 2 kr., séra Jóhann Þorkelsson í Reykjavík 5 kr., séra Skúli Skúlason í Odda 2 kr., séra Valdemar Briem að Stóra-Núpi 5 kr., séra Sigurðr Gunnarsson á Valþjófsstað 5 kr., séra Jón Jónsson að Stafafelli 1 kr., séra Þórhallr Bjarnarson, dócent, 5 kr., séra Jens Pálsson 10 kr.

---

Í fjarvist Magnúsar Pálssonar gegnir Jón Blöndal (545 William Ave.) féhirðisstörfum fyrir *Sam.*

---

**Páll S. Bardal,** 430 Ross Ave., er innköllunarmaðr fyrir *Sam.*

---

Hr. *Sigrbjörn Sigrjónsson* sendir "Sameininguna" út. Adressa hans er: 164 Kate St. Til hans snúi menn sér viðvíkjandi afgreiðslu blaðsins.

---

Lexíur fyrir sunnudagsskólann; annar ársfjórðungr 1894.

6. lexía, sunnud. 6. Maí: Síðustu dagar Jósefs: 1 Mós. 50, 14—26.
7. lexía, sunnud. 13. Maí: Ísrael í Egyptalandi: 2. Mós. 1, 1—14.
8. lexía, sunnud. 20. Maí: Œska Mósesar: 2. Mós. 2, 1—10.
9. lexía, sunnud. 27. Maí: Móses sendr þjóð sinni til frelsis: 2. Mós. 3, 10—20.

---



---

„SAMEININGIN“ kemr út mánaðarlega, 12 nr. á ári. Verð í Vestrheimi: $1.00 árg.; greiðist fyrir fram. — Skrifstofa blaðsins: 704 Fifth Ave. N., Winnipeg, Manitoba, Canada.—Útgáfunefnd: Jón Bjarnason (ritstj.), Páll S. Bardal, Friðrik J. Bergmann, Hafsteinn Pétrsson, N. Stgr. Þorláksson, Magnús Pálsson, Jón Blöndal.

PRENTSMIÐJA LÖGBERGS — WINNIPEG.